[Þess íslendska evangeliska Smábóka-Félags rit Nr. 35.]

# Andlig Ræda

um

þeirra Evangelisku Trúarbragda sanna Grundvöll

af Sýslumanni Jóni Espólín.

Textinn 1. Cor. 3, 11.
Einginn fær annan Grundvöll lagt, enn þann, sem lagdur er, hvør ad er Jesús Christur.

---

Eg er Drottinn þinn Gud, sem út leiddi þig af Egyptalandi — þú skalt ecki hafa annarliga Gudi fyrir mér, sagdi Gud Drottinn vid Israel fordum 2 M. B. 20, v 3. Þetta er þad fyrsta bodord í vorum barnalær-

dömi, og þad fyrsta sem út var gëfid á Sínaí. Sídan hefir Gud sjálfur útlagt þetta bodord ítarligar í lögmálinu, á þennan hátt: elska skaltu Drottinn Gud þinn af öllu hjarta þínu, og allri öndu þinni, og öllum mætti þínum, og öllu hugskoti þínu (5 M. B. 6, 5.), hvört Jesús seigir ad sé hid ædsta bodord í lögmálinu (Math. 22, 37, 38.). Þetta bodord sjálft er undirstada allrar sannrar Gudsdýrkunar; í því er innifalid: ad Ísraelsmenn, er Gud útvaldi fyrst sér til eiginligs fólks, og sídann allur hans söfnudur, tilbidji og dyrki eingan annan enn þann einasta Gud, heimsins skapara; en í þess útleggingu: ad þessi dyrkan géti ecki sked réttiliga, utan menn elski hann af öllu hjarta. Og svo sem bodordid sjálft er sá fyrsti Grundvöllur Gudsdyrkunarinnar, sem er ad þeckja skaparann; svo er útleggíngin því samqvæm, og sýnir ad þeckíngin sé daud nema elskan fylgi, og ad elskan sé lögmálsins uppfylling, því hún knýr manninn til gódra verka; af henni verda þaug verkin gild, sem ógild eru í sjálfum sér, en án hennar eru þaug ógild, sem annars væru í sjálfum sér góð. En af því ad syndugum manni er ómögulígt ad elska Gud réttiliga, allra helst þar hann kann ei annars enn finne sig sekan í margföldum bodordabrotum, hvörra kvittun hann af náttúrunnar ljósi ecki getur átt sér vísa, þá þarf hann ad

þeckja Guds elsku í Christó; bædi til þess ad hans elska styrkist og sé á grundvelli bygd, og líka til hins, ad hann géti haft vonina og trúna um svadanna fyrirgéfníngu og eylíft líf, án hvörs sønn elska til Guds fær ei stadfest ordid. Því sökum þess, ad vér vitum, ad Gud elskadi svo heiminn, ad hann gaf sit sinn eingétinn Son, til þess ad allir, sem á hann trúa, ei skuli fortapast, heldur hafa eylíft líf, gétur vor elska ordid sterkari, enn annars hefdi ordid: því bædi vill Gud ad vér elskum sig mest, fyrir þann velgjørníng sem mestur er allra, og líka er oss þad audveldast; því af þeim velgjørníngi sjáum vér berligá, ad hann hefir elskad oss fyrri; og einga ádra orsøk gétur postulinn Jóhannes fundid sterkari, til ad knýa oss til ad elska Gud, þar hann seigir: látum oss hann elska, því hann elskadi oss fyrri!

Hángir þetta þá svo fast hvad af ødru: ad dýrka Gud einan, og ad elska hann í Christó, ad þad er svo sem einn og hinn sami grundvøllur og undirstada allrar vorrar velferdar. Israels menn þurftu fyrst ad vita, ad einginn Gud væri til nema sá eini, og hann ættu þeir einan ad dýrdka, og þad sama þurfa allir ad vera sannfródir um; en sídan var þeim, og øllum, sýnt, hvar í sú dýrdkan fólgin væri, sem er í því, ad elska hann, og var þeim þar med

svo sém vendi til endurlausnar verksins, því einginn gétur elskad Gud rétriliga, einasta fyrir þessa lífs giædi; en oss christnum mønnum er þad ljósliga afmálad; og sjórir þetta svo hvad af ødru, ad ecki má adskilja. Því ef vér dýrkum Gud, virdum vér hans ord og trúum því; en ef vér trúum hans ordi, trúum vér því ad hann hafi géfid oss sinn Son; og trúum vér þessu, vitum vér ad hann er oss af Gudi géfinn til helgunar og endurlausnar; en ef vér vitum þad, er oss audsýnt, ad vér fáum ecki þóknast hønum án helgunarinnar; og ad vér þá høfum endurlausnina í hans syni, ef vér elskum hans lærdóm um kjærleikann, trúna vonina, þolinmædina, og adrar kristiligar dygdir, er hann hefir kennt oss, og høfum vilja og vidleitni til ad fylgja hønum af fremsta megni; og hér af sjáum vér þá berliga, ad eingínn fær annan grundvøll lagt, enn lagdur er, sem er Jesús Christur.

Nú af því vér høfum ad vísu æfinliga hina stærstu — en á þessum tíma sérliga (* — orsøk ad minnast ástgjafar Guds í Christó, og einkum þess, ad hann hefir unnt oss síns heil. ords, til ad þeckja þennan grundvøll, án hvørrar hann féck

---

(* Þessi Ræda var samin um nærsthaldna Jubilhátíd 1817.

oss ei ad notum komid, til þess ad vér tækjum oss vara vid ad hverfa frá þeirri þekkíngu aptur, (eins og vorir forfedur á midaldursöldum voru frá henni villtir ordnir, en fyrir Guds óþreytanliga mildi fengu hana ad nýu, hvörs vér nú adnjótum), þá vil eg med fám ordum sýna sannleik Postulans orda, ad **þessi grundvöllur sé sá einasti, sem lagdur verdur til tímanligrar og eylífrar farsældar**, og færa þar til nockur dæmi, med því fleiru, sem þar af má leida. Þú eylífi Gud, sem lagdir oss þennan grundvöll í þínum eingétnum Syni fyrri enn grundvöll veraldarinnar, styrktú oss til ad íhuga þetta skynsamliga og sáluhjálpliga, fyrir þann sama þinn elskuliga, í hvörjum þú hefir oss elskad. Amen.

---

Þad er öllum mönnum, jafnvel þeim heidnu og villtu í náttúruna inngéfid, ad dýrka einhvörn Guddóm; en svo margháttud sem þekkíngin er, svo er og dyrdkanin; hvar af flýtur, ad med því alleina ein þekkíng hlýtur ad vera sú réttusta, en þær sem frá henni víkja, rángar meira edur minna, eptir því sem mismunurinn er stærri edur minni, þá verdur þad eins ad vera um dyrdkunina. Sérhvör Gudsþekkíng og dyrdkan, sem mennirnir hafa, er þá nockurskonar grund-

völlur, ef svo má heita, en því valtari og veikari, sem hann víkur meira frá því eina sanna, sem Gud hefir os opinberad, og eins og Jesús seigir, um húsid, sem bygt var á sandi. Slíkt er einginn lagdur grundvöllur, sérdeilis þegar vantar þekíngu á því, ad Gud heimsins skapari einn eigi ad tilbidjast og dýrkast, svo sem allur heidindómur og afgudadýrkan er, hvör er fellur um koll jafnskjótt og sannleikans ljós er framborid. En med því náttúran hefir ként þeim fáu mönnum, sem an Gudsorda ljóss hafa haft sétníng á ad fylgja réttri skynsemi, ad þar hlyti ad vera alleina einn sannur Gud, svo sem vér sjáum á Grekíngunum, þá er sú meiníng nú ordin mjög vída efalaus, og ad réttri vissu.

En þeim sem þá vissu þykjast hafa, ber þó ekki öllum saman um sáluhjálpina og hennar medöl, og gildugleika hins opinberada Guds ords; og þessvegna hafa mennirnir, sem þó trúa ad ei sé nema einn sannur Gud, lagt sér sjálfum, og enn nú leggja, ymisliga grundvelli, hvar af allar trúarþrætur og villudómar sprottid hafa í heiminum; og þessir trúa því ecki, er Postulinn seigir, ad einginn fái lagt annan grundvöll, enn þann eina Jesúm Christum, sem þó er samqvæmt því, sem sjálfur Christur seigir: Öll plantan, sem minn himneskur Fadir plantar eigi, mun upprætast.

Færa þeir þad til síns máls, ad margur trúarlærdómur stendur enn nú og útbreidist, sem ecki er samqvæmur vorum; en þeis er ad gjæta, ad Postulinn kallar þad ecki grundvöll, sem einhvörnlíma hlytur ad falla. Jesús medkénnir einnig, ad villudómarnir séu plantan, og nidursettir til gródurs, en hann seigir, ad þvílík plantan muni uppræzast. Vil eg nú til meiri íhugunar framleida nockra slíka lærdóma, bædi þá sem umlidnir eru og þeirra útfarir, og svo þá, sem enn eru í heiminum; og geing eg framhiá afgudalærdóminum, sem ei má Lærdómur kallast, hvörs vanvitskufullur vani, er á eingum grundvelli stendur, en vik til hinna, sem grundvöll þykjast hafa.

Er þá fyrst ad tala um trúarbrögd Gydinganna; ecki þau, sem Moyses og Spámennirnir kéndu þeim, heldur eins og þaug eru nú, því þeir hafa gleymt því sem þyngst var í lögmálinu, trúnni, dómnum og miskunseminni, og kénníngar, sem ecki eru annad enn bodord manna; þó trúa þeir á þann eina Gud, en einga afgudi, og þykjast því hafa grundvöll fyrir sér. Þeir leita réttlætis af lögmálsins verkum, en þad sama lögmál seigir: allir eru þeir frávíknir, allir, hvör med ödrum ónýtir ordnir, þar er einginn sá gott gjöri og ecki einn, (Róm 3, 12.) og Páll

postuli er því samqvæmur, er hann seigir: ad fyrir lögmálsinsverk verdi eckert hold hólpid. (Róm. 3, 2. Gal. 2, 16); og med því þeir medtaka ecki Christum og hans fridþægíngu, en lögmálid, sem þeir treysta á, fordæmir verkin í þeirri grein, er eg slrags umgat og mörgum ödrum, þá fellur þeirra grundvöllur af sjálfum sér, og þeir hafa eckert ad reida sig á; eckert Guds fyrirheit í lífinu, því reynslan sýnir þeim, ad þeir eru útreknir af sínu landi; eckert í nádarinnar ríki, því þad sem þeir hafa reidt sig á, ad Gud mundi senda sér einn Messías og Frelsara, meina þeir ecki framkomid; og eckert í dódanum, því lögmálid gefur syndurum eckert fyrirheit um eylífa sáluhjálp. Þad er oss því fyrir augunn leidt, ad sá grundvöllur sem þeir hafa, er raunar engínn, og þó trúa þeir á þann eina Gud og hans fyrirheit, en þad alleina vantar, ad þeir trúa ecki á Jesúm Christum, og eins er háttad um adra, sem þó hafa þeckt, ad heimsins Skapari ætti einnsaman ad tilbidjast.

Í fornöldinni voru spekíngar medal heidíngjanna er þad þecktu; þeir höfdu fáir vissar ástædur, en voru þó helst tvennslags: Stóici og Epicúræi. Þeir fyrri álitu Gud, eins og allt annad, bundinn vid forlögin; ad hann ad vísu elskadi dygdirnar, en mætti þó ecki umbuna þær; þær yrdu því ád umbuna sig sjálfar; og sú fullkomnu

sem menn þar af ødluðust, uppheldi þá yfir allan mö:gáng og óhamíngju. Þetta var að sönnu ágiætur lærdómur til að gjøra mennnina hug-prúða midt í hmisligu stríði, ránglætis áleitni annara, og midt í því myrkri, sem þá drottnaði í heiminum, og líka til að gjøra þá ráðsetta; hann fékk og mikið medhald og styrk af því hann var samqvæmur mannsins drambsemi, sem allt vill þacka sér sjálfum, og enn nú er hann ecki upprættur úr heiminum; finnast einstakir menn, sem þykjast ødrum styrkvari og vitrari, sem lofa hann, og kalla hann einfæran um, að gjøra manninn svo tíginn og yppårligan, sem hann vera eigi. En svo góður sem þessi lærdómur sýnist vera að því leiti hann upphøvetur til manns-lofsta, en rædur frá óráðvendni, samt útstúfar Guðs orð hønum ølduúgis, í því að hann eignar manninum sjálfum sína fullkomnun, og þykist eckert þurfa af Guði að þyggja. Já, skynsemin sjálf er Guðs orði þarí samhljóða, þegar rétt er aðgjætt; því hver einn má finna, að hann þegið hefir lífið sjálft, og alla sína veru af Guði, og mun hann þá ecki verða að þyggja allt annað? Hún kénnir og, að eingin mann-eskja er algjør í sínum athøfnum," og einginn sem fái sagt: »mitt hjarta er hreint," jafnvel einginn sem er viss um að góta staðið stødugur í ælíngu útvortis dygða. Lærdómi þessum fylgir eckert traust á Guði, eingin elska til Guðs, og

eingin vissa um betra líf eptir þetta; hann vantar þó ecki, að ei játi hann þann sanna Guð og leiti fullkomnunarinnar; en þó er hann grundvallarlaus, og það einasta vegna þess hann þeckir ecki Jesúm Christum.

Aðrir spekíngar, er Epicúræi hétu, hösðu, enn minni ástæður, því þeir ætluðu Guð mundi eckert skipta sér af, hvurju framfæri í heiminum; það er því ecki ómaksverdt, að sýna þeirra grundvallarleysi. Meðal Gyðínganna líktust Phariséar og Essenar þeim fyrri, því þeir stunduðu verkhelgina, en Saducæar þeim síðari, því þeir trúðu ecki ødru, enn því, þeir sáu fyrir augunum; en hvørutveggiu þeßa niðurþaggar Christur optliga og leiðir þeim fyrir sjónir þeirra óvitur leik.

Auk þessara voru nockrir Spekíngar í fornøld einstakir, sem hösðu betri sannleiks ástæður enn aðrir; en af þeim øllum sýnist mér bera Sócrates og hans lærisveinn Plató; hvørra sá fyrri kéndi mønnum mjøg hugarlátliga góðan lifnað og borgaraligar skyldúr, og leiddi þá kénníngu svo heim, að menn urðu að samsinna hønum; lifði einnig sjálfur því samqvæmt, án þess hann treysti á mannkosti sína; því hann sagðist að sønnu vita, "að hann hefði viljað þéckast Guði, en hvørt sér hefði tekist það, vissi hann ecki."

En þá síðari, Pkató nefniliga, sagði: „að oll sæla væri innifalin í sameiníngunni við Guð.“ Þeirir hèfðu að sönnu von, en af því þeir rísu ei af endurlausninni í Christó, höfðu þeir eingan áreiðanligan grundvöll með sjálfum sér; hvar af vér sjáum, hversu sönn Postulans orð eru: að eínginn sái annan grundvöll lagt, enn Christum.

Eftir Christindómsins inn færslu uppkomu hmisligir sérvitríggar og villumenn, Manichæar, Gnóstikár, Arianiskir og aðrir; þessir vildu flestir viðurkenna einn sannan Guð, en viku þó frá grundvellinum í Christó, og álitu hann ei rèttiliga fyrir heimsins Lausnara; þessvegna höfðu þeir einga sanna edur óbrygðula huggun.

Tyrkjar trúa einnig á Guð, heimsins skapara, og hata alla Afguði; hvað mun þá valda því, að þeir hafa eingan sannan grundvöll? Ekkert annað enn að þeir þeckja ecki Guðsnáð í Christó, og géta því ecki haft neina örugga eda lifandi trú. Sama er að seigja um forfeður vora, sem lifðu í páfadómsins blindni, af hvörri Guð hefir nú þrifið oss út með sínum völduga armlegg; þeir vissu af sönnum Guði, og sömuleiðis af sínum Endurlausnara, en þeir viku þó frá þeim sanna grundvelli og smíðuðu sér annan; syndguðu á móti Guðs fyrsta boðorði og féllu í afguðadyrkun; trúðu á helga menn og höfðu

þá fór að medalgaungumönnum, þar þó Ritníngin feigir, að einn sé medalgángarinn; höfdu meira traust á verkhelgi, sálumessum, pílagríms-ferdum, klausturlifnadi, aflátum og ödrum hégóma, enn á Christs fridþægíngu. En þar eptir vard allt þeirra sálar ástand. Vissa um sína eigin velferd, grundud á Guds ordi, vard eingin; þar á móti mikill ótti fyrir bannfæríngum, hreins-unareldi og ödrum hindurvitnum; og loksins féll þessi grundvöllur af mönnum uppreistur, og er ad falla dagliga, eins og húsld sem á sandi var bygt; og þessi plantan, er sá dimnefti Fadirinn ei hafdi plantad, upprættist.

Á vorum dögum hafa einstig upprisid lær-endur, sem kénna líkan lærdóm og hinir gömlu Stóici, sjálfshelgi eg þad sem þar af flytur, neita forlíkun Christs, og vilja ad mennirnir forþéni sjálfir eylífa velferd. Í því mismuna þeir frá hinum, ad þeir játa Guds forsjón, hvorn lærdóm þer hafa tekid af Ritníngunni, en vilja þad ecki medkénna, og trúa ad nockru leiti því-eylífa lífi, en hafa þó þar um dauſa og dauda ſmind-un. En med því þeir hljóta þó ad kannast vid, ad allar mannanna dygdir eru ófullkomnar, og þeirsvegna gjöra sér í hugarlund ad þeir meigi vænta þess, ad Gud sligi forlíkunar medalslaust fram yfir smábrestina, er þeir svo kalla, og eru þó raunar í öfissu; og þar ad auki med því þeir

samsinna Guds forsjón, kannast vid, ad hann ali enn fyrir mönnunum til hins besta, þá brióta þeir nidur sinn eiginn lærdóm; því hvörnig skyldi Gud vera umhyggju fyrir mönnunum í því minna, og ecki hafa séd fyrir ad upplýsa þá í eylífs lífs, og géfid þeim þar um siálfs síns vilja til kynna, í sínu ordi? Hvörnig skyldi hans forsjón stiórna verdldinni, og þó Christindómsins fúrdanliga útbreidsla vera skén án hans forsjónar? og hvad var þad í Christindóminum sem mest var á móti stadid í heiminum, og med undarligustum hætti hefir yfirhönd feingid? Ecki var þad sidalærdómurinn, í hvörjum þeir vilja láta allan Christindóminn falinn vera; hann fékk lítil edur eingin mótmæli; heldur hitt: Lærdómurinn um mannsins hverdugleika, um Christs fridþægingu og trúna á hans Gúddóm; þetta var sá lærdómur sem allstadar var móti mælt, og þeir enn mótimæla; en vér siáum, ad hann er sá Guds kraptur, sem nidurbrotid hefir gyrdíngarnar og allar hædir sem hafa sett sig á móti hönum, og mun þad giöra allt til heimsins enda; „og kémur þad hér sérdeilis fram," ad einginn fær lagt annan grundvöll, enn þann sem lagdur er, Jesúm Christum." Af þessu öllu er þá audsært, ad sá lærdómur sem Gud hefir í Ritníngunni kénnt oss, og, ad eyddum páfadómsins myrkrum, aptur, fyrir Lúthers og annara hönd,

í ljós leidt, er sá eini rétti, hvar fyrir vér fá-um hønum aldrei fullþackad.

En hér af leidir þá nockud meira: þad er ecki nóg ad hafa ljósid, og gánga ecki í ljósinu! verum því ecki svo vanþacklátir vid Gud, er oss hefir géfid þvílíka upplýsíngu og þvílíka von, ad bera minni ávøxt, enn þeir sem ecki hafa hana! Gaungum því í ljósinu, medan vér høfum þad! Fylgjum þeim grundvelli sem Jesús Christur hefir lagt fyrir sinn lærdóm, sem er: ad vér elskum Gud, því hann hefir elskad oss ádur í Christó, og náúngann hans vegna, og af elsku vid hans bodord; en kønnumst þó vid vorn ófullkomligleika, óverdugleika og máttleysi til hins góda; játum oss óuýta þjóna, þó vér feingjum allt þad gjørdt, sem vér eigum ad gjøra, og óverduga allrar þeirrar nádar, sem Gud hefir sýnt oss, fyrst upphafliga í því ad géfa oss sinn Son, og sídan ad leida oss á ný úr villunar myrkri, er vér høfdum ratad; en treystum þó því, ad hann ecki muni láta þvílíkt stórvirki sín verda ónýt á oss, edur gleyma sinni trúfesti, svo leingi sem vér ecki afrækjum hans ord og verdum hørdulausir um hans vilja, heldur leitustum vid ad þeckja og virda hans gjædsku, og þad ei alleina med ordi og túngu, heldur í verki og sannleika, eptir því sem hverjum géist

framast hans náð til. Umfram allt gjætum þess, að forðast illgyrnis syndir, og að láta feikja oss af hverjum lærdóms vindi, svo ljós Guðs orða, sem nú hefir glatt skinið hjá oss um hálft þriðja hundrað ára, verði ei frá oss tekið, og gefið þeim þjóðum, sem ávöxt færa þaraf; vér sjáum þó, að Guðs sannleiki í Christó, er sá eini óbrygðanligi grundvöllur, og þegar einhvör þjóð hefir útskúfað honum frá sér, hefir hann brotist fram hjá annari, með enn meiri krapti. Sá sami Jesús, sem heitið hefir því, er vér sjáum dagliga framkoma: „að hann vildi svo grundvalla sína kyrkju, að helvítanna port skuli eingan krapt hafa móti henni,“ hefir einnig heitið: „að gjöra hann að stólpa í húsi Guðs,“ sem fast heldur við þennan grundvöll. Guð dæmir þá sem fyrir utan eru; vér eigum ekki um þá að dæma; en oss, sem bæði er miklu vandfarnara enn þeim, og gefinn miklu betri kostur á æðri sælu og nákvæmari sameiníngu við Jesúm, byrjar að álíta það fyrir hina æðstu farsæld og blessun, að vér erum undirbúnir með svo ljósri þeckíngu, til að verða hans útvaldir, og hofum í hans Friðþægíngu eilífa huggun ámóti dauða og dómi. Hann unni oss að njóta að eilífu allra sinna velgjörnínga, og að þacka sér verðugligar fyrir þá, enn nú getur skéð, í Guðs Jerúsalem,

sem kémur af himnum, hverrar Sól og Túngl ad Gud er, fyrir sakir þeirrar sömu sinnar Frid-þægíngar! Amen!





Kaupmannahøfn, 1824.
Prentad hjá Bókþrickjara P. E. Rangel.